Þvi hun medkiennir Christi Lærdoom, og hefur Christum sialfañ fyrir sitt Høfud og Herra alleina.

† Er þad þa ætijd søñ Christileg Kyrkia, sem vidur kieñir Christi Nafn, og kieñir sig vid hañ?

Nei, ei utann hun kienni þar med Christi Ord o-falsad, og brwki þau heil. Sacramenta eftir hanns Innsetningu, og er þetta Kyrkiunnar Kienni-Teikn. Joh. 8. 31. 32. Ef þier BLijfid VJd MJJna RÆdu, þaa erud þier mijnir sañir LÆrisveinar.

Verda þeir þa allir Saalu-hoolpnir sem lifa og deya i þeirri søñu Kyrkiu?

Nei; Ei allir Limir þeirrar sijnilegu Kyrkiu, helldr alleina hinnar osynilegu verda Saaluhoolpnir. Matth. 22. 14. MArgir eru KAlladir, eñ FAir UTvalldir.

Eg meinti ad ecki væri neina einasta ein Kyrkia, hver er þa Mismunur millum þeirrar sijnilegu og osijnilegu?

Hun er eigi utann ein, enn i þeim utvortis og sijni-lega Hoop eru tvennslags adskilianlegir Limir, sem eru Hræsnararnir, og þeir sann-Christnu.

Hverier eru Hræsnarar, og alleina utvortis Limir?

Þeir sem af einberri Medkienning hroopa: Herra! Herra! Eñ giøra ecki Vilia Fødursins, sem aa Himnum er. Matth. 7, 21.

Hverier eru sañ-Christnir og riettilegir Kyrkiuñar Limir?

Þeir sem i Trwñi giøra Guds Vilia, so þeir hallda sier vid Drottiñ, og eru eiñ Andi med honum. 1. Cor. 6. 17. Rom. 8. 9. Hver hañ hefr ei Christi ANdá, sa er EJ HAñs.

† Kañ Madr ætijd ad þeckia þessa hina sijdari fraa þeim firri?

DRottinn þeckir ætijd sijna, enn fyrir Mananna Augum er saa Mismunur ecki ætijd opinnber; Þar fyrir kallast Kyrkiann osynileg, af þvi heñar Limir

hyliast

hylist i þeim stoora utvortis Hoop, Hræsngranna.

† Meiga sañ-Christnir hafa Samfielag med Hræsnurum?

Ecki i þeirra Bondsku, þvi Liosid hefr eigi Samfielag vid Myrkrid, ellegar Christur vid Belial; eñ i Kauphondlan, Erfidi og annarri soddañ naudsynlegri Umgeingni gieta þeir ecki komist hiaa þvi, þvi annars yrdu þeir ad rijma Heimiñ. 1. Cor. 5. 10.

Hafa þaa þeir sañ-Christnu nockurt naakvæmt Samfelag sijn aa milli Innbyrdis?

Jaa, þvi þar þeir allir eru Limir aa einum Lijkama, Greinir aa einu Trie, og Born fædd af eins Fodur Sædi, þa hafa þeir brooderlegt Samfielag og Hlutdeild i Sorg og Gledi, i andlegum Gaasum og Velgiorningum, i Bænum og Fyrirbeidslum, i Trwñi, og Von þeirrar eylijfu Arfleifdar.

Eph. 4. 3. 6. Verid kostgiæfnir ad hallda Einudrægni i Andanum fyrir Band Fridarins. Eitt Lijkami og eiñ Andi, so sem þier erud kalladir uppaa eina Von ydrar Kallanar. Eiñ Drottiñ, ein Trw, ein Skijrn, eiñ Gud og Fadir allra, saa sem ad er yfir ollum, fyrir alla, og i ydur ollum.

† Getur Guds Kyrkia geingid til Gruña?

Suosynilega og almeñilega Kyrkia forgeingr eigi, helldr verdr heñi halldid vid af heñar Hosdi, Christo, aa mooti ollum Helvijtaña Portum; Þo lijdur Gud oftlega, ad Tyrannar og Villumenn eydileggia hana i vissum Stodum.

Hvad er nu eftir i Pridiu Greiniñi?

Þrennt, sem er, Syndanna Fyrirgiefning, Holldsins Upprisa, og þad eylijfa Lijf.

Hver fyrirgiefur Syndina?

Sialsfur

Sialfur Gud, sem Syndiñ er drijgd aa mooti.
Marc. 2. 7. Hver maa Syndirnar FYrirgiefa nema GUd eiñ.

Hvad er, ad fyrirgiefa Syndina?

Pad er ad afmaa og burttaka alla Syndarinnar Sekt og Straff, so ad Syndarinn reikneſt so fyrir Riettlaatann, sem alldreigi hefdi hann syndgad.

2. Sam 12. 13. Drottiñ hefur i Burttekid þijna SYnd, þu skallt ECki DEya.

Vill Gud aa þañ Haatt fyrirgiefa Syndina?

Jaa, so oft sem nockur umvendir sier og trwir Evangelio, vill Gud fyrirgiefa hønum Syndina af einskiærri Naad, fyrir Christi Verdskulldan, hver ed med sijnu Bloodi aa Krossinum hefur fullu bætt fyrir allrar Verallda rinnar Syndir.

Eph. 1. 7. J hverium vier høfum EMdurlausnina fyrir hañs Blood, sem er SYndaña FYrirgiefning.

Hverium Møñum vill Gud fyrirgiefa Syndina?

Øllum sañ-ydrandi og trwudum Saalum, eñ ei þeim Jdrunarlausu og Vantrwudu.

Post. G. B. 2. 38. GJørid YFirboot, og hver ydar eiñ laati skijra sig i Nafni JEsu Christi til FYrirgiefningar SYndaña. Ezech. 18. 21. 22.

Hveriar, edur hvad margar Syndir vill Gud fyrirgiefa?

Allar Syndir, bær stærstu aasamt med þeim smærstu, þaa Syndarinn snijr sier ad eins af Hiarta.

1. Joh. 1. 7. Ef vier GAungum i LJoosinu, lijka sem hañ sialfur i Lioosinu er, þa høfum vier Samfielag iñbyrdis, og Bloodid JEsu Christi hañs Sonar HReinsar oss AF ØLLum SYndum.

Med hveriu Medali veitir Gud Møñum Fyrirgiefning þeirra Synda?

Med sijnu heilaga Evangelio, hvert hann hefur giefid Makt og Mindugleika til sijnum Pienurum ad predika hier a Jordunni, i sinn Stad, fyrir ollum Jdrandi, til Syndanna Fyrirgiefningar.

Luc. 24. 47. Ad PRedika lata i sijnu Nafni Jdran og Syndanna FYrirgiefning a medal allra Pioda.

Hvert er pad Medal a vora Sijdu, fyrir hvert vier odlunst Syndanna Fyrirgiefning?

Eckert annad enn Trwenn, sem medtekur Christum, og i honum Riettlætid, af einskiærri Naad.

Gb. Post. 13. 38. 39. Ydr bodast fyrir henna Syndanna Fyrirgiefning, og af ollu pvi, af hveriu pier gatud eigi riettlatir vordid i Moysis Logmali, enn hver hann TRwir a pENann, sa er riettlatur.

Pienar ecki þessi Lærdoomur, um Fyrirgiefning Syndanna, til Andvaraleysis?

Margir ad sönnu misbrwka hann þar til, og falla i þvi stærri Fordæming; enn Guds Born upporvast vid þessa Naad til Elsku-fulls Packlætis og enn meiri Guds Otta. Ps. 130. 4. J hia pier er Fyrirgiefningin so ad Menn OTTist PJg.

Hvad er Lijkamans edur Holldsins Upprisa, sem Pridia Greinin hondlar um framveigis?

Ad, fyrir Guds Kraft, samteingiast aftur a pe im effta Deigi Lijkamir allra þeirra Daudu Sálunum, sem þær biuggu i adur, og upprijsa sumir til eylijfrar Gledi, sumir til eylijfrar Pijnu.

Joh. 5. 28. 29. Su Stund mun koma, a hverri, pa allir þeir sem i GRofunum eru, skulu heyra hans Rodd. Og þeir munu þa FRamganga sem Gott giordu til LJffins Upprisu, enn þeir sem illa giordu til DOmsins UPPrisu. Joh. 6. 40. Dan. 12. 2.

Getur þetta mögulega skied?

Jaa, Þvi Gudi, sem af eingu skapadi Jørdina, og Þañ fyrsta Mañ af Jørduni, er eingiñ Hlutur Omøgulegur. Luc. 1. 37.

† Er naudsynlegt ad trwa Upprisu þeirra Daudu?

Jaa, fyrir Sakir Guds Rettlætis, sem bædi launar og straffar; Þvi til þess horfir bædi Vou þeirra Trwudu, og Skielfing þeirra Ogudlegu.

1. Cor. 15. 13. 14. Ef Upprisa Framlideña er ecki, þa er Christur og ecki uppprisiñ. Eñ ef ad Christur er eigi uppaftur risiñ, so er vor PRedikun onijt, þa er og ydar TRu ONijt.

† Munu Lijkamarnir i Upprisuñi verda eins aasig komnir og hafa sømu Eigiñlegleika sem nu?

Nei, Þeir munu Þa hafa andlega Eigiñlegleika og vera odaudlegir, oforgeingilegir, hæfir til ad medtaka annadhvert himneska Gledi, edur Helvijtis Pijslir eylijflegana.

1. Cor. 15. 42. 43. 44. Pad verdur saad NAtturlegur Lijkami, eñ mun upp aftur rijsa ANdlegur Lijkami, etc.

Hvert fara þeir upprisnu Lijkamir hiedañ med Saalunum?

Eftir Þad bwid er ad hallda Doominn, fara Þeir Fordæmdu i eylijfann Helvijtis Elld, Kvalir og Pijnu, enn Þeir Utvølldu i Þad himneska, eylijfa og sæla Lijf. Matth. 25. 34. 41. 45.

Hvad er þad eylijfa Lijf?

Eitt fullkomid Samkvæmi med Gudi, Þaa Þeir Saaluhoolpnu, aa Saalu og Lijkama fullkomlega frijadir fraa Syndiñi og øllu Illu, niota oendanlegs og oumrædilegs Fagnadar, Fridar, Gledi og

Vegsemdar

Vegsemdar, og lofa Gud med ollum Utvolldum Einglum oaflaatanlega. Psal. 17,15. 1. Cor. 13.12. 1. Thess. 4. 17. Rom. 2.6.7.

Hvad er sa Eyliifi Daudi?

Skamarleg og Angistar-full Utskwfun fraa Saalu Guds; Enn i hennar Stad gniistandi og brennandi Ellds og Orma Kvol aa Saalu og Liikama. Matth. 25. 41. Farid hier burt fraa mier bolpader i Eyliifan Elld, han fyrerbwiñ er Fiandanum og hans Arum.

Hverier komast i Helviitis eyliifan Dauda og Piinu?

Allir sem lifad hafa i Syndunum af aasettu Raadi, og eru i Ydrunarleysi, Vantrw, Andvaraleysi, og raangri Aetlan um Guds Raad, burtdaudir; og þeir kallast eyliiflega UTSKusadir fraa Gudi.

† Hvad er þessi Utskwfan?

Ad saa alviisi Gud, hefur, ecki af nockru fortaksslausu aasettu Raadi, helldur vegna Mannanna eiginn mootþrooannlegrar Þvermoodsku aaliktad, ad utskwfa þeim og fordæma þa alla, sem hann hefur fraa Eyliifd fyrirsied, ad hanns Raad villdu siifelldslega ecki sinna, helldur forsmaa, og bliifa i þeirra Idrunarleysi og Vantrw til Enda.

Joh. 3. 18. Hver aa hañ trwir dæmist eigi, eñ hver hañ ECKwir Eigi, hañ er nu þEgar DAEmdur, þviad hañ trwdi eigi aa Nafn eingietins Guds Sonar.

Hverier verda Hlut-takandi i Gledi og Sælu eyliifs Liifs?

Aller þeir sem sannarlega hafa trwad aa Christum, lifad Christilega og stadid i þvi stodugir allt til Enda; og þeir kallast UTvalldir.

† Hvad er Utvalningin?

Ad Gud hefur til ætlad alla þa til eylijfs Lijfs, sem hann hefur fraa Eylijfd fyrir=sied ad mundu vilia medtaka þa frambodnu Naad, trwa aa Christum, og i þeirri Trw stødugir standa til Enda.

Rom. 8. 28. 30. Vier vitum, ad þeim, sem Gud elska, þiena allir Hlutir til hins besta, þeim sem eftir FYRer=hyggiuñi KAlladir eru. Þviad hveria hañ hefur aadur fyr=irhugada, þa hefur hañ og TIlskickad, þad þeir skylldu verda samlijkir hañs Sonar Jmind, so ad hañ sialfur sie Frumgietningur aa medal margra Brædra. Eñ hveria hañ hefur FYrirhugada, þa hefur hañ og KAllad, eñ hv=eria hañ hefr kallad, þa hefr hañ og RJettlaata giørdt, eñ hveria hañ hefr riettlætta, þa hefr hañ og dyrdlega giørdt.

## Ut af Drottiñlegri Bæn.

Hvad aa ad vera idugleg Ydkun eins trwads Christins Mañs?

Ad hafa sijna Umgeingni med Gudi i Bæninni og heiløgum Hugleidingum, vidlijka sem þa Madur umgeingst og talar einlæglega vid Vin sinn. Psal. 19. 15. Eph. 6. 18.

Hvad er þad ad bidia?

Þad er ad tala einfalldlega vid Gud i sijnu Hiar=ta, utausa siñi Eftirlaangan fyrir hønum, kvarta fyrir hønum um sijnar andlegar og lijkamlegar Na=udsyniar, og af iñsta Gruñi Saalariñar, fara eins hvers aa Leit med alvarlegri Laungun hiaa hønum. 1. Tim. 2. 13.

Hver aa so ad bidia?

Allir Meñ, og jafnvel Smaaborninn. Psal. 8. 3. Þvi þad er eigi alleinasta ein Skyllda sem befol=gyd er i ødru Bodordinu, og añars oftlega, ad oss hæfir

hæfir ad bidia, helldur er þad og eiñig ein Naad og Velgiørningur, ad vier audvirdilegir og ohreinir meigum og þorum ad bidia. Luc. 11. v. 13. Cap. 18. v. 8. Psal. 50. 15.

Gieta þa allir Meñ bedid svo ad Gudi sie þægilegt?

Nei, ecki þeir Ydrunarlausu, þvi þeirra Bæn er Gudi Andstygd; Helldur þeir sem annadhvert eru umvendtir, edur eru a Umvendunar Veigi.

Joh. 9. 31. Vier vitum ad Gud HEirir EKki Syndugа, helldur þad, ef nockur er GUds DYrdkari, og gi{ø}rir eptir hañs Vilia, PAñ HEyrir HAñ.

Hvern a Madur ad tilbidia?

Alleina þann Þrieina Gud, sem alleiñ kañ ad bænheyra og veita þad sem vier eptir Oskum.

Hvar a skal Madur byggia sijna Bæn?

A. Jesu Christi Forþienustu og Fyrirboon hia Fødurnum. Joh. 16. 23. Sañlega, sañlega, seg eg ydur, ef þier biedied Fødurin nockurs i mijnu Nafni, þa mun hañ giefa ydur þad.

Hvernig a Madur ad bwa sig til Bænariñar?

Madr skal i hiartanlegri Jdran, taka fyrir sig einlægañ Asetning ad vilia þioona Gudi, og mootstrijda alvarlega allri Synd, venda sijnu Hiartalagi fra veralldlegum Hlutum, þeinkia um sijna stoora þreingiandi Naudsyn, setia sier fyrir Sioonir, ad sa hellagi og myskunsami Gud er þar nalægur, og snwa so, med Andvorpunum um Bænariñar Anda, allri siñi Saalar Eptirlengun til Guds, so sem til eins rijkuglegs Uppsprettu Bruñs allrar Giædsku.

† Hvernig a vor Bæn og Samtal vid Gud ad vera lagud?

 Hun

Hun ꜳ ad skie i sonarligu Trausti med Gudrækni, Audmijkt og Forlijkunarsomu Hiactalagi. Þar af verdur eiñig ad koma Audmijkt og Lotning i Lijkamans Skicki og Hꜳttalagi, fyrir þeim Allsmegtugasta Gudi, eins og giordi Guds eigiñ Son, og heilagra Dæmi eru til.

Psal. 95. 6. Komid, lꜳtum oss tilbidia og NJdurkrioypa og Framfalla, fyrir þeim Drottni sem oss hefr giördt.

1. Tim. 2. 8. So vil eg nu þad, ad Meñirnir bidie i öllum Stødum, og upphefie Heilagar Hendur AN REidi, og ORvinglunar.

† Hvenær og hvar ꜳ Madur ad bidia?

Alltijd og allstadar, helldst i Einrwmi.

Luc. 18. 1. Hañ sagdi eina Eftirlijking til þeirra þar uppꜳ, ad Meñ skylldu JAfnañ BJdia og eigi aflꜳta.

Matth. 6. 6. Nær þu bidst fyrir, þa gack iñ i þitt SVefnhws, og LYk Dyrunum aftur, og bid þu Fødur þiñ i LEynum, og Fadir þiñ sꜳ i Leynum sier, mun þier þad opinberlega aftur giallda.

A Madur ad bidia eftir Bænabookum alleina?

Lijka af Hiartanu og med eigiñ Ordum.

Gieta Børn og einfalldt Foolk vel utskijrt sijna Hiartans Þꜳnka med sijnum eigiñ Ordum?

Jꜳ, þvi vid Gud kañ Madur ad tala eins og einfalldlegar eñ vid Meñina, og þar ad auki giefur hañ sijnum Børnum Nꜳdariñar og Bænariñar Anda. Zach. 12. 10. Rom. 8. 15. 26.

Hvad margslags er þa Bæniñ?

Tveñslags: Su Iñvortis; þa Hiartad talar alleina i Andvarpan og Eftirlaungun, og hoogværlega uppliptir sier til Guds; þetta kallast jdugleg Bæn, er bædi mꜳ og ꜳ ad hafa i frami midt i Erfidi og

Uñ-

Umsvifum. Sw Utvortls; Þa Muñurinn talar af Nægd Hiartans, og a vissum Tijmum framber sijna Þanka og Eftirlanganir med Ordunum.
Psal. 19. 15. Laat þier þocknast ORdræd mijns Muñs, og MAlid mijns HJarta fyrir þier: Drottiñ miñ Frelsari og miñ Endurlausnari.
Psal. 55. 17. 18. Eg vil AKalla til Guds, og mun Drottiñ hiaalpa mier: Um KWolld, MOrgna og MJddegi vil eg koma og graata, þa mun hañ heyra mijna Raust.
Dan. 6. 11. Daniel fiell a sijn Knie PRisvarsiñum a DEigenum, badst fyrir, lofadi og þackadi sijnum Gudi.
Ps. 119. 164. Ps. 38. 10. Es. 29. 13. 14.
Eigum vier alleina ad bidia fyrir siaalfum oss?
Nei, vier eigum ad bidia fyrir ollum, og þo þad væri vorir Ovinir; eñ sier i Lage eigum vier ad bidia fyrir Yfirvalldinu, fyrir Kieñifedrunum, so og fyrir vorum andlegum Brædrum og Systrum.
Jac. 5. 16. BJdied HVer FYrir ADrum þad þier heilbrigdir verdid.
Matth. 5. 44. BJdied fyrir þeim er ydur GJora SKada, og OFsookn veita.
Um hvad eigum vier ad bidia?
Ecki alleinasta um lijkamlegar Gaafr, so sem Uppheilldi, Frid, Heilbrigdi, hvers vier eigum ad bidia med þvi Forordi: EF ÞU VJllt, DROTTiñ! Helldur sierdeilis um andlegar Gaafur, so sem: Fyrirgiefning Syndaña, Styrk Trwariñar, hreint Hiarta, goodañ Undirbwning til Daudans og eylijfa Saaluhiaalp. Þo hæfir ecki añ Forords ad bidia um þær andlegu Gaafurnar, sem ecki eru allþeilis naudsynlegar til Saaluhiaalpar, so sem ad komast framar i andlegt Volædi, finna hiaa sier stoo-

ra Diorfung Trwarinnar, edr mikla andlega Gledi, og so fleyra. Matth. 6. 9. Luc. 11. 1.

Hver er su allra fullkomnasta og besta Bæn?

Su heilaga Bæn, FADIR VOR, sem JEsus sialfur hefur kiendt siinum Lærisvein.... og ollum oss ad bidia med. Matth. 6. 9. 13. Luc. 11. 2. 4.

Hvernig sundurdeilist þessi Drottinlega Bæn?

I Inngaanginn, Sio Bænirnar, og Nidurlægid.

Hvad er Inngaanguriñ?

Þad trugga Trwar Andvarp: FAdir Vor Þu Sem Ert A Himnum!

Þvi verdur Gud aavarpadur i Bæniñi sem eiñ Fadir?

Gud vill med þessu Fødur Nafni tilleida oss og locka, ad vier trwa skulum, etc. Les Frædinn.

Kuña þeir Ydrunarlausu ad hafa þad Trwar-Traust, ad kalla Gud aa Himnum siñ Fødur?

Hann er ad sønnu allra Fadir eftir Skøpuniñi, Vidhalldinu, hañs naadarsamlegum Vilia til ad umvenda þeim, og frelsa þa; þo kuña þeir Ydrunarlausu ecki ad kalla hañ Fødur, so leingi sem þeir ecki Endurfædast, og ødlast eiñ sonarlegann Anda, þvi annars er þeirra rietti Fadir i Helvijti.

Joh. 8. 44. Þier erud af FØdurnum FJanda, og eftir Gyrndum ydar Fødurs þa vilied þier giøra.

Hver kañ þa ad kalla Gud, Fødur siñ?

Þau Endurfæddu og sønnu Guds Børn, jafnvel þo þau sieu veik. Gal. 4. 6. Med þvi ÞJer ERud BØrn, hefur Gud sendt Anda siins Sonar i ydar Hiørtu, kallandi, ABBA, kiæri FAdir!

Hvar fyrir er sagt: Fadir vor; eñ ecki: Fadir miñ?

Þvi sierhvør Christiñ Madur aa ad bidia i Ein-

ingu

ingu Andans og Nædariñar, med hinum ødrum og fyrir hinum ødrum, so sem fyrir sialfum sier.

† Hvar fyrir kỏllum vier Gud þañ Fødur, sem er a Himnum?

Til ad upplysta Hiartanu, og þvi helldur ad upporva Virdingarfullt Trwnadar Traust til þess allra Hærsta, sem sier og megnar alla Hluti.

Matth. 6. 32. Ydar Himneskur Fadir veit (ad) þier Þurfid alls þessa vid.

Eru margar Bænir i Fadir vor?

Sio, af hverium Fiorar þær Fyrstu hlijda uppa þad gooda sem vier bidium uñ, eñ Þriar siidari hlijda uppa þad Illa, sem vier afbidium.

FYRSTA BÆN.

Helgist þitt Nafn.

Hvad merkir Guds Nafn?

Hañs Eiginlegleika, Ord, Sacramenti, og allt þad sem honum sierdeilis tilheyrir. Sia 2. Bod.

Verdur þetta Guds Nafn heilagra af þvi, ad vier bidium þess?

Guds Nafn er sañarlega i sialfu sier heilagt, eñ vier bidium hier, ad þad mætti og so hia oss helgast.

Hvernig helgast Guds Nafn?

Þa Guds Ord kieñist klaart og hreint, og vier, etc.

Matth. 5. 16. Latid so ydvart Ljoos lijsa fyrir Moñunum, so ad þeir siai ydar GOdverk, og DYrdki GOdur ydar a Himnum.

Hvernig verdur Guds Nafn vanhelgad?

Med raungum Lærdoomi og ogudlegu edur Hræsnisfullu Lijferni; Þvi hvor sem ødruvijsi kiennir edur lifir, etc. Rom. 2. 23. Þu hrooſar þier af Log-

 maal-

Maalenu, og vanvirdir Gud fyrir Yfirtrodslu Logmaalsins. Ezech. 36. 22. 23.

Kañ eiñ Ydrunarlaus Syndari rett ad bidia med þessari Fyrstu Bæn?

Nei; ecki af sañarlegu Hiarta, þvi hañ er siaalfur sa sem lastar og vanheidrar þetta heilaga Nafn.

ANNUR BÆN.

Tilkomi þitt Rijki.

Er Guds Stioornan edur Rijki margfalldt?

Þrefalldt, sem er: 1.) Naatturunnar Rijki, i hveriu hañ med sijnu Almætti stioornar ollum skopudum Hlutum eftir sijnum Vilia.

2.) Naadar Rijki, það er Kyrkiañ, edur Samneyti Heilagra, hvar hañ stioornar sijnum trwudum Bornum fyrir sinn Heilaga Anda i Ordinu og Sacramentunum.

3.) Er Dijrdareñar Himneska Rijki, i hveriu þeir sem Christo tilheyra skulu eylijflega rijkia med honum i fullkominni Sælu og Gledi.

Uñ hvert af þessum Rijkium bidium vier i Añari Bæniñi?

Uñ Naadarinnar og Dijrdarinnar Rijki.

Hvernig kiemur Guds Rijki til vor?

Þegar vor Himneskur Fadir giefur oss siñ, etc.

Kañ eiñ Ydrunarlaus Syndari vel ad bidia med þessari Añari Bæn?

Nei, ecki af sañarlegu Hiarta, þvi hañ er hræddur vid Heilags Anda Stioornan, amast vid Guds Rijki, og lifir af Asetningi i Satans Rijki.

† Hefur Satan þa lijka eitt Rijki?

Jaa, þessarar Veralldar Gud og Hofdinge er kræftugur i Bornum Vantrwariñnar og undir hañs

Stioornan standa allir sem eigi eru endurfæddir, allt þangad til þeir umvendast.
Col. 1. 13. Sæ ed oss hefr frelsad af Myrkrañs Valldi Myrkrana, og hefr oss iñsett i Riiki siins elskulega Sonar.
†. Hvar af þeckiast þeir sem eru i Diofulsins Riiki?
Þar af, ad þeir þioona Syndinni, og giora Diofulsins Vilia, so sem væri hann þeirra Herra.
1. Joh. 3. 8. Hver sæ Syndina Giorir, er af Diøflinum.

PRIDIA BÆN.

Verdi þiñ Villie, so æ Jordu sem æ Himni.

Hvad er Guds Vilie?
Guds Vilie er vor Helgan fyrir Trwna og Kiærleikann, eftir Logmælinu og Evangelio.
1. Joh. 3. 23. Petta er hañs Bodord, ad vier Trwum æ Nafn hañs Sonar JEsu Christi, og elskum hver añañ, so sem þad hañ gaf oss Bodordid.
1. Thess. 4. 3. Pad er VIlie Guds ydar HElgan.
Skiedur þessi Guds Vilie alltiid og hiæ ollum?
Nei, þvi þar sem Guds Riiki kiemur ecki til, þar skiedur ecki hanns, helldur Diofulsins, Heimsins og Holldsins Vilie.
Hvernig skiedur þa þessi Guds Vilie?
Þegar Gud hindrar oll vor ill Ræd og V. etc.
Gietur þa Vilie Mañsins ecki neitt Gott, ef hañ mæ vera siælfrædur?
Nei, þvi vors Holldz Siñislag er Fiandskapur i giegn Gudi; hverki þeckium vier þad sem oss er Reyndar nytsamlegt, nie hofum Rænu æ ad leita þess nema Gud upplijsi vorn Skilning, og hneigi vorn
 Vil-

Vilia til ad leggia oss undir þad sem hann vill vera laata, þvi hanns Vilie alleina er vijsdoomsfullur, goodur og fullkominn.

† Setur Guds Vilie skied hier a Jordunñi af Mönnum, eins og hañ skiedur i Himnenum af Einglunum?

Jaa, þo hañ verdi eigi so fullkomlega, þa gietur hañ skied samt med so hiartanlegri Einlægni, med Gledi og Alvorugiefni.

Er þad noog ad vier i Hlidniñi giorum Guds Vilia?

Nei, oss biriar og so ad lijda þolinmoodlega þad sem Gud vill vera laata, og giefa oss olldungis undir hañs Hond, lijka sem eiñ siwkur leggur sig i Læknarans Hendur. 1. Sam. 3. 18. Eli sagdi, Hañ er Drottiñ, hañ giorir hvad honum er þeckt.

Geta Verralldariñar Born med saññarlegri Hiartans Alvoru bedid med þeirri Pridiu Bæn?

Nei, þvi þau strijda af Asetningi mooti Guds Vilia, og vilia ad hañ hagi sier eftir þeirra daarlegum Vilia, og syndsamlegu Siergiædi.

## FIOORDA BÆN.

## Gef oss i Dag vort daglegt Braud.

Hvad skilst fyrir daglegt Braud?

Allt þad sem vier med þurfum til þessa Lijfs Biargar, etc. Og er eigi alleina bedid um, ad vier megum odlast þetta, helldr ad þad meigi blessast oss.

Þvi kallast allt þetta Braud?

Þvi Braudid er þad almeñasta og naudsynlegasta Medal til Lijkamans Biargar og Upphelldis.

Hvers vegna bidur þu umi Daglegt Braud?

Þvi eg a vera anægdur med naudsynlegt Upphelldi

helldi, ann þess ad kieppast eftir yfirflíootanlegu.
1 Tim. 6. 8. Nær vier høfum FÆdi og Klædnad, so lætum oss NÆgia.

Þvi er tillagt þetta Ord: J Dag?

Þvi eg mæ ei ala Oñ añars Morguns, helldr læta hveriunn Deigi nægia sijna Piæning. Matth. 6. 34.

Þvi segir þu: Gief oss VOrt Braud?

Vegna þess vier iñilykium eiñig vorn Næunga i Bæninni, lijka þess vegna, ad vier eigum ad bidia, ad vier mættum eta vort eigid Braud, enn ecki stolid Braud med Ranglæti og Leti, af hveriu ordsakast ad gænga æ Vonar-vol.

2. Thess. 3. 12. Slijkum bivodum vier og æmiñum þæ fyrir vorn Drottiñ JEsum Christum, þad þeir erfidi med Spaklæti, og eti sitt eigid Braud. 1. Thess. 4. 11. 12.

A þa sæ sem bidur uñ daglegt Braud ad erfida lijka fyrir þvi?

Jæ. 1. B. Mos. 3. 19. J þijns Andlitis Sveita skalltu neita þijns Brauds.

Mæ hiñ Rijki þa ecki vera alldungis Jdiulaus?

Nei, first hañ vill eta, þa æ hann ad erfida; þad er, giøra nockud Gott, hvad sem vera kañ, til Dijrdar Gudi og Gagns Næunganum.

1. Pet. 4. 10. ÞJooni hver ødrum, hver eiñ, med þeirri Giøf sem hañ hefur ødlast, so sem GODdir Forstiovornar Meñ margvijslegrar Guds Nædar.

## FJMTA BÆN.

Fyrirgef oss vorar Skulldir, so sem vier og fyrirgefum vorum Skulldunautum.

Hvad fyrir Skulld edur Gialld er þad, sem vier bidium Gud ad fyrirgiefa oss?

Vorar Syndir med þeirra forþientu Straffi, tijmanlegu og eylijfu.

Vill Gud fyrirgiefa þa Skulld ꝏn Betalings?

Christus hefur betalad þañ sijdarsta Pening fyrir oss, sem ei kuñum sialfir betala; þar fyrir bidium vier i hanns Nafni uñ Naad og Fyrirgiefning.

Hef: Syndarin̄ Þorf ad bidia daglega uñ Fyrirgiefning Syndaña, þegar Gud hef: einusiñi tekid hañ til Naadar?

Jaa, lijka so sem vier þurfum dagliga Brauds vid, so þurfum vier og lijka Naadar og Fyrirgiefningar med; Þvi vier, þvi midur! syndgum daglega af Breiskleika, jafnvel þo Guds Born syndgi eigi framar af Asetningi edur Illgyrni.

Ps. 19. 13. Hver kañ ad formerkia hversu oft hañ misgiorir? Fyrirgief þu mier miñ HErra Leyndar Breste.

Hveriu lofum vier Gudi i þessari Bæn, þa vier leitum Fyrirgiefningar til hañs?

Ad vier aftur a moot vilium fyrirgiefa og forlaata vorum Skulldunautum, þad er, odrum Moñum, sem brotid hafa imooti oss, jafnvel þo vier forþienum ecki þar med af Gudi Syndaña Fyrirgiefning.

Col. 3. 13. UMlijdid hver añan, og ef ad nockur hefur Klaugu-Maal moot odrum, þa fyrirgiefid þad hver odrum iñbyrdis, lijka so sem Christur hefur fyrirgiefid ydur, so skulud þier eiñig.

Luc. 6. 37. FYrirgiefid, so mun ydur fyrirgiefid verda.

Kañ þa sa Haturs fulli og Hefndargiarni ad bidia med þessari Fimtu Bæn sier til nockurs Gagns?

Nei, þvi med þvi þad er eigi satt ad hañ fyrirgiefi þeim sem giordt hafa honum i mooti, þa bidr hañ, ad Gud vilie ecki helldr fyrirgiefa sier sijnar Syndir,

og

og þad ſkiedur eigi helldr; Eñ Reidi Guds bliiſr yfir honum, lijka ſo ſem Reidi hañs yfir Naunganum.

Syr. 28. 1. 2. Hver ſiñ Siaalfur HEfnir, a þeim mun DRottiñ Aftur HEfna, og honum einig hañs Syndir aftur hallda. FYrirgief þijnum Naunga, þad ſem hañ hefur misgiørdt vid þig, og BJd ſijdañ, ſo munu þier og lijka þijnar Syndir verda fyrirgiefnar.

Matth. 6, 15. Ef þier FYrirgefid ei Mønnunum ſiñ Breſt, þaa mun ydar Fadir EJ FYrirgefa ydur ydar Brot.

## SJOTTA BÆN.

## Eigi leid þu oſs i Freiſtni.

Freiſtar Gud nockurs Mañs?

Hann er ecki einn Freiſtari til þeſs Vonda, þvi þad er mootſtædilegt hanns Heilagleika. Jac. 1. 3.

Eru þar þa meir eñ einſlags Freiſtingar til?

Jaa, ſumar eru af Gudi til Gooda; eñ hinar til Jlls eru af Dioflinum, Heiminum, og voru eigiñ Holldi.

Hvad eru eiginlega þær Freiſtingar ſem koma fraa Gudi?

Þær eru nockurskonar viiſt Aſigkomulag, andlegt edur lijkamlegt, ſem Gud lætur Menn i rata, til þeſs ad reyna þa, og laata ſiaa, hvert i þeirra Hiarta er ſonn Trw, Kiærleiki edur Þolinnmædi.

† Seig þa nockud til Dæmis uppaa ſoddañ Freiſtingar?

So reyniſt og freiſtaſt ſaa Rijki, med ſijnum Rijkdoomi, hvert hann ſie myſkunſamur; Saa Faatæki, med ſiñi Orbyrgd, hvert hañ ſie anægdr; Saa Mektugi, med ſinni Makt, hvert hañ ſie lijtillaatur; Saa Veſæli, med ſinni Eymd, hvert hañ ſie þoliñmoodr; Saa ſem hverki ſier nie finnur Huggun, er þar med reyndur, hvert hann gieti trwad, eingu ad ſijdur.

† Þeckir Gud ecki aan þeſſa Hiarta Mañſins?

Ad

Ad viịſu þeckir Gud hanns innſtu Þanka aleingᵹ
þar; eñ hañ vill Madurinñ verdi ſialfum ſier og odᵹ
rum riett kuñugr. Joh. 6. 6. Þetta ſagdi hañ af þvi ad
hañ villdi reyna hañ, þviad hañ viſsi vel, hvad hañ villdi
giøra. Sia Eftirdæmi Abrahams, 1. Moſ. 22. 1. etc.
Iſraels Foolks i Eydimørkuñi, 2. Moſ. 16. 4. Ezechiæ,
2. Chron. 32. 31.

Bidium vier þa i Siøttu Bæniñi, ad Gud freiſti vor allᵹ
deilis ecki?

Nei, Þvi Þad er oſs oftlega miøg nytſamlegt.
Jac. 1. 2. 3. Brædur mijnir elſkanlegir! REiknid þad
Fyrir ALLañ FØgnud, nær þier i margviịſlegar Freiſtingᵹ
ar fallid, og vitid þad ydar Trw verkar Þoliñmædi.

Hvad er þa Meining þeſsarar Bænar?

Ad ſialfur Gud villdi eigi freiſta vor fram yfir
vort veika Megn; Helldr audſyna ſig trwfaſtañ, og
giefa ſoddann Enda a Freiſtinguñi, ad vier faᵹ
um þad þolad; Og þa hann lijdur þad, ad vorir
Ovinir freiſta vor, þa ſetie hañ þeim riett Takmørk.

Hverier eru þeir Ovinir, ſem freiſta vor til hins Vonda?

Þeir eru: Dioſullinn, Heimurinn, og vort eigid
Holld og Blood.

Hvernig freiſtunſt vier af þeſſum vorum Saluhialpᵹ
ar Ovinum?

1.) Dioſullinn, ſa riętti Freiſtari, innſkijtur
vondum Hugrenningum, eins og ødrum glooandi
Pijlum. Joh. 13. 2. Dioſulliñ hafde Sendt i Hiarᵹ
ta Judæ Simonis Iſchariothad hañ ſviki JEſum.

2.) Heimurinn, eda Heimſins Børn, freiſta med
Ognan, Tillockan, hneixlanlegum Eftirdæmum og
Allum Munnrædum, ſem ſpillia goodum Sidum.

Ordſk.

Ordſt. 1. 10. Son miñ, þegar Jllir Skalkar Locka þig, þa filg þeim ecki.

3.) Vort Holld og Blood, eda ill Naattura, ſem hinn naalægaſti og hættaſamlegaſti Ovin, freiſtar vor med illum Gyrndum og Lyſtingum ſem i Hug-ann koma. Jac. 1. 14. Hver eiñ Freiſtaſt, nær hañ tilteigiſt af ſiñi eigiñ Gyrnd, og lockadur verdur.

Hvad a ſa ad giora; ſem freiſtad verdr til þeſs Vonda?

Hann ſkal vaka, bidia og ſtriida med þeim andlegu Hervopnum mooti þeſſum Hættalegu Ovinum.

Eph. 6. 16. 17. 18. Uṁ fram alla Hluti, þa hondlid Trwariñar Skiolld, med hverium þier kuñid wt ad ſlöckva øll Elldleg Skeyti þeſs eitrada Ovinar; Og griipid Hialm Hiælpræðiſins, og Sverd Andans, hvert ad er Guds Ord, og Bidied iduglega i allri Naudþurſt, med Bænum og Beidni i Andanum, og þar til Vakid med øllu Stadfeſti og Akalli fyrir Heilogum.

Er ecki Vantrw, edur hædilegir Þankar og Hugrænir uṁ Gud, hættaſamlegar Freiſtingar af Dioflinum og Mañſins Hiarta?

Jw; Enn ſierhver trwadur, ſem hefur Andſtygd a því, og ſtriidir þar a mooti, af fremſta Megni, maa hugga ſig þar vid, ad Gud ſier honum er það ei i Sialfrædi, helldr er það ein ſaarleg Piaaning, ſu er, og ad ſijduſtu verdur, til Saaluhialpar Nota.

Gietur Madur eigi ſialfur leidt ſig i Freiſtni?

Ju, þaa hañ ei flijr og fordaſt allt Tækifæri til þeſs Jlla, helldur les ſkadlegar Bækur, uṁgeingſt ugglauſt med Heimſins Bornum, edur tekur ſier, fram yfir ſitt Embætti, þa Hluti fyrir Hendur, ſem kuña ad lada hann til Synda og Hneixla hann.

Hvad er Hneixli?

Ein Afsteiting, sem liggr i Veigi fyrir vorri Saalu, og kann ad verda henni til Falls.

Er Hneixlid margslags?

Tveñslags. (1. Giefid Hneixli, sem odrum verdur giefid; med syndsamlegum Ordum, Atvikum, Athofnum, Forsoomun þess sem gioraſt skal edur og med Misbrwkun sinna Frijheita, sierdeilis þa þad skiedur af þeim, sem i þeim þrem Hofud-Stiettum eru, yfir adra bodnir til goodrar Fyrirmindunar.

(2. Tekid Hneixli, sem raanglega er tekid af þvi sem er saklauſt og gott. Matth 18. 7. Vei sie Heiminum fyrir HNeixlanir, 1. Cor. 8. 13. Rom. 14. 13. o. s. f.

Matth. 15. 12. 13. 14. Þaa geingu hañs Læriſveinar ad honum og ſøgdu: Veitſtu, ad þa er þeir Phariſæi heirdu þad Ord, hneixluduſt þeir? Eñ hañ ſvaradi og ſagdi: Oll Plantan hveria miñ Himneſkur Fadir plantar eigi, mun uppræktaſt. Laatid þa fara, þeir eru Blindir og Blindra Leidtogar, ef blindur leidir añañ blindañ, þa Falla þeir baadir i Grøfina. Joh. 6. 60. 61.

## SJOUNDA BÆN.

## Helldur frelſa oſs fraa Illu.

Er margslags þad Illa, sem vier hier afbidium?

Fernſlags, nefnilega, ſo mikid ſem aahrærir Saalu, Lijf, Æru og Gotz; Og þar Dioſulliñ er illur, Jaa, Ordſok til alls hinns Illa, þa bidium vier og i þeſſari Bæn mooti honum.

† Hvad er Illt, ſem ſnertir og ſkadar Saalina?

Sialf Syndinn, ſem er Root alls Ills, nagandi Samvitſka, Forherding, Orvijnglan, og Eylijf Helvijtis Angiſt.

† Hvad er Illt, sem snertir og skadar Lijkamañ?
Allrahanda Siwkdoomar, og adrar tilfinnañlegar særar Kvalir, af Hwngri, Kullda, Fængelsi, Landflootta, og ødru þesshættar.

† Hvad er Illt, sem snertir og skadar Æru vora og Gootz? Nær Tijmanlegra Audæsa af Ovinum edr Pioofum, Ellds-Bruni, Vatns-Vodi, svijvirdilegur Armoodur, Hærdung og Skom.

Hvad eigum vier helldst ad afbidia af øllu þessu Illa?
Þad sem Illt er æhrærandi Saalina; Þvi ef vier høfum Frid vid Gud i einni goodri Samvitsku, þa kuñum vier ad hughreista oss i øllu ødru Mootlæti, þvi þad er þa first eiñ heilsusamlegur Kross.

Af hveriu er Kross siñ heilsusamlegur?
Þvi hann nidurdempar Syndina, Siælfrædi Holldsins og Elskuna til Heimsins; Uppvekur Eftirlaungun eftir þeirri Himnesku Roosemd, æfir, reynir, og styrkir Trwna, og heñar Averti, Bænina, Yfirvegan Guds Orda, Audmijkt, Þolinnmædi, Reynslu og Vonina; Hañ lætur Guds Nаad og Almætti merkiast i vorum Breyskleika, giorir oss sam lijka JEsu Mind, og leggur so Veiginn til þess stærri Vegsemdar. Post. Giørnb. 14. 22. Oss biriar fyrir MArgar HRellingar iñ ad Ganga i GUds RJKi.

† Eru ei þeir Oqudlegu Tijdum Krossberendur?
Nei, einginn er Krossberari, nema þess Krossfesta JEsu Eftirfilgiari; Enn sa Ogudlegi hefr adsonnu margar Plaagur, sem hann oftast nær giorir sier siælfur. Psal. 32. 10

† Meigum vier þa oska oss Daudans?

Eckl

Ecki af Opoliñmædi, helldur af Leida a Syndiñi, og Trwariñar Eftirlaungun til þeirrar fullkomnu Sameiningar vid vorn Hiartkiæra Endurlausnara; Enn þo so, ad vier med Polinnmædi befolum þad hanns Vilia. Phil. 1. 23. Eg hefi Gyrnd ad frælstiliast, og hia Christo ad VEra.

Hafa þau O-umvendtu Heimsins Born nockra Orsøk ad offa sier Daudans?

Nei; þvi þa þau giora þad, yfirvega þau ei hvad þar eftir skal fram vid þau koma, og hversu herfilegur ad er sa Kvalastadur, sem þeirra Saalir komist i med Daudanum.

Hver fær þa Saaluhialplegañ Dauda?

Saa sem deyr i Drottni; Þad er, i riettu Trwariñar Samfielagi vid Herrañ JEsum.

Opinber. B. 14, 13. SÆlir eru þeir FRamlidnu, sem i DRottni DEya i fra þessu. Jai, Andiñ seigir, ad þeir hvijli af þeirra Erfidi, eñ þeirra Verk fylgia þeim eftir.

Eru þa eigi aller sælir, sem kalladir eru so, þa þeir eru daudir?

Nei. Spek. B. 3. 1. Saalir Riettlaatra eru i Guds Hendi, og eingiñ Pijna snertir þær.

Hvernig hlioodar Nidurlagid af Fadir vor?

Pvlad þitt er Rijkid, Mauttuciñ, og Dijrdiñ, ad Eylijfu, Amen.

Hvar fyrir miñist su bidiandi Saala þessara Hluta sijdarst i Bæniñi?

Vegna þess, ad þad er kroftugt Medal til Uppørvunari Trwñi og Voninni um Bænheyrsluna, ad miñnast a Guds Rijki, Magt og Dijrd.

Hvad merkir þad Ord, Amen, sem seinast er tillagt?

Þetta okunna Ord merkir Jaa, vissulega, sannliga; þad skal verda.

**Kaū Madur þa ad vera viß um, ad haū verdi bænheyrdur, og ædlist þad sem haū bidur um?**

Jaa, þvi Gud hefr befalad ad bidia, og lagt Befalninguna Fyrirheytid til, so þad skal skie ad haū skal bænhyrast. Amen, Amen, þetta skal þier allt vissulega giefast. Lijka so verdum vier vissir giørdir þar um af Fyrirboon Christi, Heilags Anda, og allrar Christiligrar Kyrkiu.

Luc. 11. 9. Bidied, og mun ydur giefast, og leitid ad, og munud þier finna, knijed aa, og mun fyrir ydur upplokid verda. Psal. 50. 15. Es. 65. 24. Joh. 16. 24.

**Eñ skiedur þad þa alltijd?**

Jaa, nema Madur bidie i mooti Guds Vilia, edr um þad sem haū sier oß ei þienanlegt; þa veitir haū oß eigi þad sama, helldur annad betra i þeß Stad.

2. Joh. 5. 14. Pad er su Diørfung sem vier høfum til hañs, ad ef vier Bidium nockurs Eftir HAñs Vilia, þa heyrir haū oß. 2. Cor. 12. 8. 9.

**Lætur Gud þa Bænheyrsluna koma strax framm?**

Stundum, eñ eigi aavallt; Þvi þa haū vill ad vier jdkum oß i stadfastri Trw, Von og Poliñmædi, þa dregr haū Hiaalpina undaū um Stundar Sakir, og lætur hana koma i riettann Tijma. Siaa Hab. 2, 3. 2. Pet. 3. 9.

**Seig mier nu Loksins: Hvad aa ad koma Maūi til þeß ad bidia kostgiæfilega?**

Guds Skipan og Fyrirheit, Mañsins eigiū Neyd, og ypparleg Nytsemd sem hann hefur af Bæna Idunni so og ad Trwinn kunni eflast, og Gud verdi

 dijrdkadur

diirdkadur og lofadur fyrir Bænheyrsluna.

## Ut af Skiirnar Sacramentinu.

**Hvad er eitt Sacramenti?**

Pad er sierdeilis heiløg Handtiering (heilagt Verk og heiløg Pionusta) innsett af Gudi, i hverri hañ med synilegum Medølum frambijdur, veitir og stad-festir sijna osynilegu Naad og himnesk Giædi.

**Hvad mørg voru Sacramentiñ i Gamla Testamentinu?**

Tvø; Umskurninn, og Paaska-Lambid.

**† Hvad skilur þu fyrir Umskurnina?**

Gud skipadi Abraham, ad allt Karlkyns af hañs Sædi skylldi endilega umskierast eftir Fædinguna, og medtakast med þvi mooti i Sattmaala vid Gud. Po reiddu Gydingarnir sig rænglega uppaa Um-skurn þeirra i Hollðinu, þar þeir voru eigi aa Hiart-anu umskornir i Andanum. 1. Mos. 17. 1. 9. etc. Rom. 2. 28. 29. Jerem. 9. 26.

**† Hvad skilur þu fyrir Paaskalambid?**

Paaskalambid var tilsett af Gudi aa Døgum Mo-sis, til Miñis um Utleidslu Israels Folks af Egyp-talandi; Med þvi var og þeirra Trw stadfest um Messiam, sem koma aatti, hver ed mundi laata slaat-ra sier eins og einu Lambi. 2. Mos. 12. 1. 10. 1. Cor. 5. 7. Ebr. 11. 28.

**Eru mørg Sacramenti i Nya Testamentinu?**

I Stadinn fyrir Umskurnina og Paaska Lamb-id hefur vor Drottinn JEsus innsett ønnur Tvø i þvi Nya Testamenti, sem er: Su heilaga Skiirn, og þad heilaga Kvølldmaaltijdar Sacramenti.

Eru

Eru allir christnir skylldugir ad tijdka þau H. Sacrament?
Jaa, þeim byriar ad þacka Gudi fyrir þvilijk Naadar Medol, og eingvann veiginn ad forsmaa þau nie fyrirlijta; Enn meiga þo eigi, ann sannrar Jdrunar og Trwar, hafa eitt saavijslegt Traust aa þeirra Brwkun, eins og þeir fyrir hana einungis kiñu verda Saaluhoolpnir.

Hver Mismunur er aa þessum Tveimur Sacramentum?
J Skijrnar Sacramentinu verdur Manneskiañ, so sem i giegnum einar Dyr, laatinn inn i Guds Kyrkiu og samteingd Guds Naadar og heilagra Samfielagi; Enn fyrir verduglega Brwkun Alltaris Sacramentisins stadfestist og stirkist hennar Saal i þvi Gooda, sem aadur var uppbiriad.

Er hier margt ad athuga um Skijrnar Sacramentid?
Þreñt, sem er: Hvad þad er? Hvad Gott Gud veitir oss med þvi? Og hvar til þad skylldar oss?

Hvad er Skijrnar Sacramentid?
Skijrninn er ecki einsamallt Vatn. Les Frædiñ:

Hvad er hun þa meira?
Hun er þad Vatn, sem samann er reyrdt og, etc.

Er þa margslags verulegt Efni i þeirri Heilögu Skijrn?
Tvennslags: Nefnilega, Vatnid og Guds Ord, samlagad Vatninu.

Hvad fyrir Vatn er þad?
Þad er riett naatturlegt og almennilegt Vatn.

Hvert er þad Ord sem samlagad er Vatninu?
Þad er JEsu Ord: Matth. 28. 19. Marc. 16. 15. 16. Farid ut og kieñid öllum Þioodum, og skijrid þær i Nafni Fødur, og Sonar,

og Heilags Anda.

Hvad er Jnihalld þessara Orda?

Tvennslags; Sem er Skipan ad skijra og lata sig skijra, so og lijka Fyrirheitid um Saaluhiaalpina handa þeim sem eru skijrdir, og sannarlega trwa.

Hvernig er farid ad skijra?

Manni er dijft i Vatnid, eda þvi er ausid yfir hann, i Nafni Guds Fodur, Sonar, og Heilags Anda.

†. Hvar fyrir nefnist þeirrar Heilögu Prenningar Nafn vid Skijrnina?

Þad hefur Christus so skipad, til þess, ad aaviisa þar med, ad sa skijrdi kiemist þa i naakvæmt Samkvæmi, og Sameining vid Gud, heyrir honum til, og er teiknadur med hanns Nafni.

† Hver a so ad skijrast?

Allar Þioodir (so hefur Christus skipad i Innsetningar Ordunum) og lijka Ungbornn; Þad er, allir Menn ad eingum frateknum, sem vilia komast inn i Guds Sofnud, og verda Saaluhoolpnir.

Hver maa skijra?

Þaa Naudsyn krefur, maa þad giora hver Christinn Madur, enn reglulega verdur Skijrnin framinn og veitt af Guds Þienurum, sem eru Verkstioornar Menn yfir Guds Leyndardoomum. 1. Cor. 4. 1.

Hvad Gagn og Nytsemd er ad Skijrnini?

Þad hun verkar og framkvæmir i oss Fyrirgiefning Syndanna, frelsar oss fraa Daudanum og Dioflinum etc. (Les. 2. Spurn: i Sacr. Sk. P. 12.)

Hver er Meining þessara Orda?

Þessi: Ad Skijrnin giorir oss Tvofalldt Gagn, fyrst frijar hun oss fraa miklu Illu, þar næst veitir

hun

hun oss mikid Gott.

Hvert er sierdeilis þad Firsta Illa sem Skijrnin frelsar oss fraa?

Syndinn, fraa hverri hun frelsar oss; Þad er, ad kvitt verdur giefid bædi Sekt og Straff Uppruna Syndarinnar og þeirrar Gioranlegu, eiñig Magt og Yfirraad Syndarinnar verda nidurdempud, fyrir Christi Kraft, i þeim sem skijrdur er, jafnvel þo Syndarinnar Root takist eigi i burt til fulls.
Rom. 6. 4. Þvi erum vier og eiñig med hønum G Restradir, fyrir SKijrnina J DAudan, uppaa þad, ad lijka sem Christur er uppvakiñ fraa Dauduin, fyrir Dijrd Fødursins, lijka so skulum vier gaanga i einu Niju Lijferni.

Hvad er þad Aññad Illa, sem Skijrniñ frijar oss fraa?

Daudinn; Þvi allar Þiaaningar, og saa sijdasti Vidskilnadr hiedañ fraa þessu Lijfi, er þeim, sem eru Skijrdir og Trwadir Christnir Menn, ecki nockurt Straff edur Skadi, helldur Abati, blessadur Kross, og eiñ Saaluhiaalplegur Heimflutningur og Inngaangur i þad eylijfa Lijf, þar saa andlegi og eylijfi Daudi hefur tapad allri sinni Makt yfir þeim.
1. Cor. 15. 55. og 57. Daudi! hvar er þiñ BRoddur? HElviiti! hvar er þiñ SIgur? Gudi sieu Packir, sem oss hefur Siguriñ giefid fyrir Drottiñ vorn JEsum Christum.

Hvad er þad Þridia Illa sem Skijrniñ frelsar oss fraa?

Diofullinn, hver ed tapar sinni Makt aa þeim sem fyrir Skijrnina eru komnir fraa Myrkrunum til Liossins, og fraa Andskotans Valldi til Guds. Post. Giornb. 26. 18. Col. 1. 13.

Hefur Christur ecki frelsad oss fraa Syndiñi Daudanum og Dioflinum: Hvernig tileinkast þa Skijrniñ,

ad hun hafi frelsad oss fra þessu?

Vegna þess, Skijrnin̄ er þad Medal, fyrir hvert vier komunst i Samfielag med Christo og niootum hans Velgiorninga. Rom. 6. 3. 4.

Gal. 3. 27. So margir af ydur, sem erud skijrdir uppa Christum, þier hafid Iklædst Christo.

Hvad Gott utvegar Skirnin̄ oss i Stadin̄ þess Illa sem hun friar oss fra?

Eylijft Lijf og Saaluhiaalp, sem eigi kann annad en̄ fylgiast med Fyrirgiefning Syndanna, hiaa þeim, sem skijrdir eru og trwa.

Marc. 16. 16. Hver han̄ trwir og verdur skijrdur, sa skal Hoolpin̄ verda, en̄ hver eigi trwir, han̄ skal fordæmast.

I hveriu er Saaluhiaalpin̄ innifalin̄?

I þvi, ad sameinast vid Gud, og niioota Guds; Þvi hann er sa ædsti Goodi, og su verulega Sæla. Joh. 17. 21. 27.

Verda þa allir Saaluhoolpnir sem eru skijrdir?

Nei, ecki allir, helldur þeir skijrdir, sem trwa; Þvi Christur seigir, ad hver sem ecki trwi, skuli verda fordæmdur, jafnvel þo hann sie skijrdur.

Er þad þa mögulegt ad Smaabörnin̄ hafi Trwna?

Ja, þvi þau gieta tekid a mooti Verkun Heilags Anda, jafnvel þo þad vitist og fornemist eigi.

Luc. 1. 15. Þegar i MOodurkvidi mun han̄ Uppfylltur verda af Heilögum Anda. Ps. 22. 10. 11. Psal. 8. 3. Matth. 18. 6. Cap. 19. 14.

† Fordæmast þau Ungbörn sem deya aadur en̄ þau hlioota Skijrn?

Eingvan̄veigin̄, þvi þau forakta eigi, helldur missa þad Medal Naadarinnar, sem Gud hefur ad sön̄u bundid oss vid, enn eigi sialfann sig, þvi lijka gietur

ur hann giordt eiñ Sæluhvolpinn æn Skijrnar.

Matth. 18. 14. So er EJgi Vilie FÖdur ydar sem æ Himnum er, ad eiñ af þessum Smæu tapist.

Med þvi þad er so stoor og mikilsverdur Hlut: ad frelsa Meñ fræ SyndiñiDaudanum og Dioflinum, og giesa þeim þad eylijfa Lijf; Seig mier þa: Hvernig kañ Vatnid ad framkvæma so veglega Hluti?

Vatnid mæ ecki slijks orka, helldur, etc. Les Fr.

Þvi kallast Skijrniñ Endurfædingarlaug?

Þvi ad Skijrninn er Endurfædingar Medal hiæ þeim Gomlu.

Eñ hvar fyrir kallast Skijrniñ: Ein Laug, edur Vatnslaug i Ordinu?

Þad er talad i Eftirliking; Þvi so sem nijfædd Born verda laugud og þveiginn af lijkamlegum Saurindum, so verdur Sæliñ med Skijrnar Lauginñ þveigiñ og hreinsud af vidbioodslegum Syndariñar Saurindum. 1. Petr. 3. 21. Skijrniñ er eckt BUrttekt Holldsins SAurugleika, helldur SAttmæli goodrar SAmvitsku vid Gud.

Þvi kallast Skijrniñ i þessum Ordum: Eiñ Sættmæli?

Af þvi i heñi framsetiast Spursmæal nockur, og verdur iñgeingiñ einn viss Sættmæli, þegar Gud giorir Loford vid Mañinn, og Madurinn giorir aftur æ mooti Loford vid Gud.

Hveriu Goodu lofar Gud Moñunum i þessum Skijrnar Sættmæla?

Ollum þeim mikilsverdu Hlutum, sem vier hofum ædur heyrt, sem er: Frijan fræ Syndinni, Daudanum og Dioflinum; enn Hlutskipti i eylijfu Lijfi, edur Barna Rietti og Arfcoku i Guds Rijki.

Hveriu Goodu lofar Madur þa Gudi aftur æ mooti.

Skijrnar Saattmaalanum?

Þessu; Ad hann vilie afneita, affegia, og i mootstanda Dioflinum, og ollum hañs Verkum; sem er: Prældoomur Syndariñar, og ollu hañs Athæfi, nefnilega: Hoffragt þessa Heims; so og, ad hañ vilie trwa aa Gud Fodur, Son og Heilag. Anda.

Er þad mogulegt ad hallda þeña Saattmaala goodrar Samvitsku?

Jaa, fyrir Guds Naad er þad mogulegt fyrir þa trwudu, sem vaka, bidia, og strijda daglega aa moti Dioflinum og hanns Athæfi.

Phil. 4. 13. Eg FOrmaa alla Hlut! FYrir PAñ, sem mig maattugañ giorir, sem er Christur.

Eñ syndga þau trwudu Guds Børn eigi oftlega af Breiskleika?

Jw, þvi midur! Þo falla þau eigi þar fyrir ur Naadar Saattmaalanum vid Gud. Rom. 8. 1.

Hverníg skiedur þad þa, ad Madurin fellur fraa sijnum Skijrnar Saattmaala?

Þad kann ad skie, annadhvert:

1.) Med þeim Hætti sem lijtid ber aa, og eigi forınerkist, med Andvaraleysi, þegar Skijrnar Saattmaaliñ er eigi alltijd hafdur fyrir Augum sier, eftir þvi sem Arinn fiølga, Naadar-Verkunum Heilags Anda er mootstadid, sønn Bænrækni, og riett Yfirvegan Guds Orda forsoomast, og þa Madur gi-efur tapt ad vera athugasamur um sitt Hiarta, og hættir aa þvi, ad strijda vid þa andlegu Ovini, og Siñislagid verdr so sijdañ hvad af hveriu eftir Veralldariñar Haattalagi Veralldlegt, Hiegoomlegt, Oandlegt og Holldlegt, hvar til Forelldrarner

eru

eru almeñilega, og þad oft med stoorri Astundan, hin stærsta Orsøk. Ebr. 3. 12. 14. Rom. 12. 2. 1. Joh. 2. 15. 27. Jac. 1. 27. Cap. 4. 4. Ellegar: 2.) Þad skiedur, so meir ber aa, edur meir eftirtakanlega, þa Madurinn fellur i opinberar og utvortis drottnandi Syndir Illvilians, og i Skaalkapor. Eph. 4. 29. 30. Es. 3. 16. og so fram̄v.

Þegar einhver hefur nu so med Hyrduleysi ed: Jllrædis Syndum rosid siñ Skijrnar Saattmaala; er þaa eingvar Naadar framar ad vænta fyrir hañ?

Jw, aa medañ enn er Kostur aa ad ydrast, med þvi Gud aa Naadariñar Tijma kallar alla Syndugu til Yfirbootar. Jer. 3. 1. 6. 7. Es. 55. 6. 7. Ezech. 33. 11. 2. Pet. 3. 9.

Skal sa þa skijrast uppaa nijtt sem vill um̄venda sier?

Nei, eingvañveigiñ, þvi saa Skilmaali sem rosiñ var aa Mañsins Sijdu, stendur enn þa oraskadur aa Guds Sijdu, og hañs Trigd verdur ecki ad eingu fyrir Mannanna Vantrw. Rom. 3. 3.

Hvad er þa su Um̄vendan, fyrir hveria eiñ Syndari kiemst aftur aa nij i Guds Naad og Saattmaala goodrar Samvitsku?

Ad ydrast eda um̄vendast, er ad kannast i Hiarta sijnu vid sijnar Syndir, sem Madur drijgt hefur, og alla Vanart sinnar Syndumspilltu Naatturu, laata þær gaanga sier til Hiarta, hrellast af þeim, og hata þær, og ad hafa innilega Eftirlaangan eftir Guds Naad i Christo, og setia sier alvarlega i Siñ ad betra sinn Lifnad.

Hverju margslags Um̄vendun eda Idrun er til?

Tvennslags: Þeirra Follnu, og hinna er Standa.

Hvad er Jdran þeirra Follnu?

Þegar su Manneskia, sem fraa Guds Raad er fall-inn, og i Syndinni er daud, verdur fyrir Guds Kraft aftur uppvakinn til þess andlega Lijfsins fyrir Trwna, forlijkud vid Gud, og þannig olldungis umvendud og umbreitt.

2. Tim. 2. 25. 26. Og straffid þa sem Mootmæler eru, ef ad Gud giæfi þeim einhveriu Sinni Yfirboot, Sannleikin ad viðurkienna, og Edurvitkadir verda ur Djøfulsins Snøru, af þeirri þeir fangadir eru eftir hans Vilia. Jer. 3. 1. 6. 7. Eph. 2. 4. 5. Post. Giorrnb. 26. 18.

Hvad er Jdran þeirra sem Standa?

Þa þeir Trwudu bera daglegt Angur fyrir þeirra umlidnu Syndir, og enn þa vidlodandi Avirdingar, bidia Gud Fyrirgiefningar aa þeim i JEsu Nafni, og einsetia sier ad deyda allar vondar Gyrndir.

Gal. 5. 24. Þeir sem Christo Tilheyra, þeir Krossfesta sitt Hold med Gyrndum og Tilhneigingum. 2. Cor. 7. 1. 1. Joh. 3. 3.

Eiga Menn endilega ad vita þenna Mismun?

Jaa, til ad burtdrijfa Andvaraleysid fraa Heimsins Bornum, sem meina, ad þau ydrist og umvendi sier daglega, sierdeilis þegar þau ganga til Skriftа, þo þau sieu enn þa andlega daud, og aan Hugskotsins edr Hiartans Lagfæringar, og hafi eigi lagt riettann Grundvoll Jdrunarinnar fraa daudum Verkum. Ebr. 6. 1.

Hversu margir eru Partar sannrar Jdrunar?

Tveir, sem er, fyrst Angur og Treigi fyrir Syndirnar, þar næst, Trwinn aa Drottinn JEsum,

hverr=

hverrar Avoxtur ad er su nija Hlijdni.

Gietur Madurinn eigi trwad a, og huggad sig vid JEsum Christum, nema hann fyrri aatur firri til Angurs fyrir Syndirnar?

Nei, su Trw sem skal hondla Christum, hlijtur ad uppkveikiast med thvi, ad vier finnum til vors syndnuga Eymdarhags, thvi annars erum vier einir af theim, sem meina their sieu hrauster og heilbrigdir, er eigi thurfi Lækningar vid. Matth. 9. 12.

Hvad er sannarlegt Angur og Treigi fyrir Syndirnar?

Andleg Særing og Hrelling sem sundurkremur Hiartad, og lætur thvi so sem svijda, Ja, kreistir stundum Taar og Græt ut af Syndarans Augum. 2. Cor 9. 10. Su HRigd sem er af Gudi, verkar YDran TJl HJalprædis, hvers eingann ydrar, enn thessa Heims Hriggd verkar Dauda. Matth. 26. 75.

Hvad stoort a soddann Angur og Treigi ad vera?

Gud sialfur hittir thann rietta Maata, efter sierhvers Syndara andlegu og naatturlegu Tilstandi; enn ad minsta Kosti hlijtur thad alvarlega ad hrella oss, ad hofum med Syndunum tapad Guds Naad, og so eigum vier ad vera hræddir vid Syndena sem sialfann Diofulinn, hvad sia er af Dæmi Davids i ollum hanns Jdrunar Psalmum.

Hvar af a ad koma soddann Angur fyrir Syndirnar?

Ecki alleina af Kvijda fyrir Syndarinnar Straffi (thvi tha er thad eins og Achabs Hræsni, 1. Kong. B. 21. 27.) helldr fierdeilis af Hatri til sialfrar Syndarinnar, og af Yfirvegan Guds Elsku og Velgiorninga, tha Madur sier sitt skielfilega Othacklæti vid so goodann og Giædsku-rijkann Gud.

Hvad

